# Løg=Þingis Bookin,

Innehaldande þad, sem giørdiz og fram̃=
foor fyrer Løg=þingis=Rettinum
Anno 1774.

Prentud ad Hrappsey,
í Því nía konúngl. prívilegerada bókþrykkerie 1774,
af Eyríke Gudmundssyne Hoff.

## Num. I.

Anno 1774. þann 5ta Júlii vid Øxará sette Hr. logmadurin̄ Biørn Marcus son eitt almen̄elegt log þíng, og til logþíngis rettarins þenustu nefnde epterskrifada logrettumenn nefnl.

Ur Kialarness þinge:

Jón Þorleifs son, Jón Þorgeirs son, Arna Jóns son, Jón Stephans son og Runólf Sigurds son.

Ur Arness þinge:

Gudmund Haflida son, Asgeir Jóns son, Eyrik Solmunds son, Jón Halldors son og Beintein Ingemunds son.

## Num. II.

Málspartar innfundu sig eingver, hvarfyrer frá rettinum var genged.

## Num. III.

Þann 7da Júlii var í løgrettu genged, og epterspurt, hvørt nockrer málspartar úr sunnan og austan løgdæminu væru til stadar á løgþínginu? og fram̄gaf sig eingenn, var því frá rettinum genged.

## Num. IV.

Þann 8da Júlii settiz Hr. lögmadurinn Sveinn Sölvason í lögrettu, og ept-erspurde hvört nockrer málspartar úr nordan og vestan lögdæminu væru til stadar, sem mál hefdu ad kæra? og mætte adjungeret sýsslumann í Mýra sýsslu Halldór Þorgríms son, sem kvadz innstefndur til ad forsvara sinn dóm af tveimur sinnar sýsslu innbygginrum; ásamt hannum mæter og annar innstefndur vidkomande þeirrar sakar Þorkell Sigurds son; og kvedz sýsslumadurinn reidu-búenn til sakarinnar ad svara, óskande ad hún mætte verda fyrerteken. Enn þar sem eingenn uppá citanternes vegna mæter her, til ad framfylgia actionen; so þykiz Hr. lögmadurinn ecke hana so leinge kunna ad fyrertaka. Uppástendur so sýsslumadurinn, ad citanterne fyrer þeirra udeblivelse verde mulcterader til justiz-cassen, og tilfundner ad betala kost- og tæring. Og þar eingver adrer málspartar innfundu sig, var frá rettinum genged.

## Num. V.

Þann 11ta Júlii settiz Hr. lögmadurinn S. Sölvason í rettinn, og liet ennú eptersþyria, hvört nockrer úr hanns lögdæme værú til stadar? hvar uppá eingen af slíkum frambavd sig, enn þeir saumu málspartar, sem í næst fyrer-farande Numer eru nefnder, frambióda sig enn á ný, ad svara til þeirrar saumu sakar, sem þar er áminnz, og uppástanda hid sama sem fyrre; hvaruppá Hr. lögmadurinn lofar rettarins ansvare á nærstkomande dege. Lögrettumennin-ner sameigenlega uppástanda bætur og kostnadar betalíng af þeim málspaurtum, sem nú so lenge frá þeim 3ia til þess 10da Júlii hafe orsakad rettinum so ó-þolanlegt uppehald.

## Num. VI.

Sama dag var upplesen forlíkun í þeirre sauk, sem á fyrerfarande áre kom inn fyrer lögþíngis-rettinn, og þess árs protocol Num. 27. medfærer, í mille klausturhaldarans Lauritz Schewíng og bóndanns Þorsteinns Eyríks sonar, hvar vid allar prætentioner uppábætur og málskostnadur eru fráfallnar. Hennar da-tum er af 20 Septembr 1773.

## Num. VII.

Sama

Sama e. m. settuz í rettinn báder Hr. Hr. løgmenninner. Og med því eingenn mætte úr nordan og vestan løgdæminu; so mætte fyrer rettinum Compagniets procurator Sr. Lindberg, og framlagde einaz løgþíngis-rettar-stefnu til þeirra vitna, sem landfogetenn Skúle Magnús son hefur innstefnt til Reykiavíkur Herad þíngs þann 8de Martii 1773, nefnel. Þorkels Þordar sonar, Japhets Illuga sonar, Magnúsar Biørns sonar, Peturs Jóns sonar, Gudmundar Jóns sonar, Níels Jóns sonar og Jóns Magnús sonar; hvørier sama stadar vitnad hafa um burtvísun þenustu-fólksins frá Reykiavík þann 25 Júlii 1767, og eru híngad stefnder, til ad heyra á citantens contra-beviser, og ad forklara þeirra vitnisburd, samt ad svara uppá þav spursmál, sem þeim af rettinum fyrerlaugd verda kunna, epter þeim documenter og beviser, sem citanten ætlar ad framfæra til svækkelse þeirra eidsvaurnu underretning í sama mále; þá og so landsógete Skúle Magnús son, sem actor, og sýsslumadur Gudmundur Runólfs son sem tómare innstefnaz til ansvara, í fald nockud á þeirra sídu kynne vera ad paa anke; epter sem sama løgþíngis-rettar stefna dat. Leytá 1 Júnii næstl. under Hr. Løgmanns Biørns Marcús sonar hende og signete, vidkomendum løglega auglýst framar útvísar, upplesen og uppáskrifud not. lit. A. Løgrettumadurinn Arne Jóns son framlagde þvínærst í rettinn eitt innlegg af 5ta hujus under nafne þeirra innstefndu vitna; hvar inne þav afsaka sig fyrer þessum rette ad mæta, vegna þar inne tilgreindra orsaka, epter sem þad vídar medfærer, uppleséd not. lit. B. Mr. Lindberg uppástendur ad saukin verde fyrerteken, jafnvel þótt þav innstefndu vitne ecke mæte, hvørra udeblivelse hann meinar ei vera til annars enn til utflugta, og ad forhala tiden; einasta vilie hann fyrer þad fyrsta, ad confererадur se þeirra vitnesburdur vid þav authentiqve documenta, sem hann í hende hefur, hvar af slúttaz kunne gyldugleike þeirra vitna, sem í saukinne vitnad hafa, nær allt er samanbored. Var so bod sendt frá rettinum til Hr. landsógetans Skúla Magnús sonar, til ad láta hann vita, ad saukin skylde fyrertakaz; Og begierde hann med bodinu til baka, ad haunum mætte anstand gefaz til þess ꝙ morgun for middag, hvad haunum er af rettinum epterláted.



Num. 8

## Num. VIII.

Þann 12ta Júlii settlz Hr. Løgmadurinn S. Sølva son í løgþíngis rettinn; mætte so løgrettumadurinn Jón Þorgeirs son, sem framlagde Hr. stiftamtmansinns aurhorisation, til ad ganga í rett sem actor uppá bændanna Sigurdar Einars sonar og Olafs Jóns sonar vegna í móte sýsslumanninum Halldore Þorgríms syne og bóndanum Þorkele Sigurds syne í epterfylgiande sauk, uppleseu not. lit. A. Sýsslumadurinn Halldor Þorgríms son uppástendur, ad actor uppá sinna principalers vegna meige nú strax leggia í rettinn so maurg lód silfurs, sem hann reiknar fyrer margra daga uppehald, sem hannum og verjanda sakarinnar se orsakad; hvar uppá rettarinns svar er: ad þar sem actor var allra fyrst í gærdag constitueradur, og kunne ecke vera vidbuenn ad framleggia penínga fyrerfram vegna sinna principaler, so meige þad ecke standa fyrer sakarinnar framgange. Þarnæst framlagde actor eina løgþíngis-rettar stefnu af 23 Septembr. 1773. under hende og signete Hr. vice-løgmannsins Jóns Olafssonar; hvar inne stefndur er adjungeret sýsslumann í Mýra sýsslu Halldór Þorgríms son og hanns meddóms menu, til ad forsvara þann dóm, sem af þeim gengenn er á Lækiarbugs þíngstad þann 17da Aprilis sama árs í mille sakarinnar vidkomenda, med audru fleira, sem sama stefna innehelldur uppleseu og not. lit. B. Vídara framlagde actor proces og dóm af dato 16da og 17da Aprilis 1773. gengenn ad Lækiarbug; hvar inne Sigurdur Einars son dæmiz ad betala til Þorkels Sigurds sonar 60 al. á landsvísu og til Hans Kóngl. Majst. hálfa mørk, enn Olafur Jóns son 40 al. til uefnds Þorkels og til Hans Majst. hálfa mørk verd-avra, uppleseun not. lit. C. Actor uppástendur, ad hvad sem herads processen medfærer, verde adgætt í tillite til bændanna Sigurdar Einars sonar og Olafs Jóns sonar; þar sem þeir þykiaz óløglega dæmder vered hafa á þeirra varnar-þínge Lækiarbug; enn vildu heldur dæmder hafa vered á aastæded hiá stifftunum; so þessvegna mætte herads dómurinn verda underkenndur, og ad actor í herade Þorkell verde anseedur til satisfaction til bændanna fyrer ranga máls ýþíng í herade; begierer og fullkomna satisfaction kost og tæríng til

sinna principaler af sínum contrapaurtum. Hvínærst framlagde sýsllumadurinn Halldor Þorgrímsson eitt innlegg sínum og sinna medtóms manna adgiørdum og dóme til forsvars; hvar inne hann serdeilis lýser sig ófornægdann yfer þeirre angefningu, ad prosasturinn Síra Wigfús Jóns son og bændurner hanns landsetar á Skídshollltum hafe eingu sínu forsvare mátt framkoma fyrer hanns hauldnum rette; hvad hann meinar aldeilis ósannferdugt med aullu audru í þeirra klaugunum, uppástandande satisfaction, kost og tæríng og múlet til justitz cassen af sínum contrapaurtum; sem það siálft medfærer, uppleſed not. lit. D. Annad innlegg framlagde adile sakarinnar Þorkell Sigurdsson, til forsvars sinne sókn í herade, hvørsu hann hafe tilneydz ad tiltala sínum nágraunnum á Skídshollte fyrer það, þeir eitt ár epter annad haufdu afbroted hanns stíflur giørdar í hans egen leigulande á einum skornum vatns farveg úr einu standuvatne, sem þeir hafe eckert átt med, og meinar af þeim aldeilis óløglega giørt; allra síst meinar hann, ad prófastinum Síra Wigfúse Jónssyne hafe sú sauk vidkomed, jafnvel þó hann siálfur hafe viliad giøra sig ad hennar vidkomanda; uppástendur nú ad verda frikenndur, samt kost og tæríng, so sem innlegged dat. 6ta husus vídar útvísar uppleſed not. lit. E. Vídara saugduz málspartarner ei hafa ad framfæra undir endelegann løg-þíngis dóm.

## Num. IX.

Sama e. m. settiz í rettenn Hr. løgmadurinn B. Marcús son; mætte so enn á ný Compagniets procurator Mr. Lindberg, og framlagde þeirra innstefndu vitna eidsvarna specification af dato 6ta Martii 1773. uppá það arbeidsfólk vid þær níu innrettíngar í Reykavík, sem burtvísad skylde vered hafa frá þenustu vid Fabriqven þann 25 Júlii 1767 sub. lit. C. Móte hvørre specification hann framleggur einn af notario publico í Kiøbenhavn attesteret og underskrifadann protocol, sem hann kallar Forretning, ved Reykevigs Fabriqve udi Island pro anno 1767. Hvaraf er ad siá, ad þesser epterskrifader menn, sem vitnanna specification umgetur ad burtvísad vered hafe þann

25 Júlii 1767, og eingenn lavn, kost, ednr underholdning frá þeim dege fenged, nefnel. Magnús Illuga son, Grímur Asgríms son, Sigurdur Sigurds son, Gudmundur Þordar son, Arne Þorsteins son, Jón Halldórs son, Biarne Johanns son, (sem í vitnanna specification kallaz Biarne Jóns son) Jón Gudlavgs son, (sem specificationen kallar Jón Gunlavgs son) Þordur Þorkells son, Gudmundur Magnús son og Høskuldur Sigurds son, hafa af Krigsraad Arve Gudmund sen þann 18 Augusti sama ár aptur í þenustuna antekner vered, og viss lavn eins og þeim ádur anteknu accorderud vered. Vídara framlagde hann verificeret udskrift af sama protocol sama innehalds, ásamt med Thorkeld Thorder sens qvittering fyrer hanns lavn, sem oeconomi vid Fabriqven, dat. 25 Júlii 1767. sem var upplesen og not. lit. D. Fyrrnefndur protocol leveraz Mr. Lindberg frá rettinum til baka. Enn nú framlagde hann þeirra stefndu vitna eid og vídare vitnan í þessare sauk af 8da Martii 1773. hvar af uppleseð er epter Mr. Lindbergs begiering, þad hiá er dreged og not. lit. E. J tillite til framlagdra documenta, sem hannum sýniz miaug so svecka vitnanna udsigende, uppástendur hann, ad þesse vitne verde tilsundenn hvørt fyrer sig, ad betala sine 3 mark, og ad þings vitned mætte verda underkendt epter løgum; segiz so ei hafa vídara ad framfæra under endelegann dóm, sem hann begerer í þessare sauk.

## Num. X.

Sama e. m. kom í løgþíngis rettenn løgrettumadurinn Oddur Jóns son Hialtalín, og liet upplesa eina stefnu under sínu nafne dat. 10da Júnii 1774; hvarmed Jón Magnús son, sem var til heimilis á Midhúsum í Garde í Gullbríngu sýsslu, stefniz ad mæta á Gaurdum á Alftanese þann næstkomande 6ta Septembr. 1774 fyrer þar haldande rett af profastinum Síra Gudlavge Þorgeirs syne, og dóm lída fyrer hórdóm og fiærvister vid konu sína Gudrúnu Jóns dóttur.

## Num. XI.

Þann 13da Júlii afsagde Hr. løgmadur Sveinn Sølvason epterfylgiande dómsslútning yfer vátns stiftu málinu úr Míra sýsslu:

Þad

Þad sem vor fornu landslög í L. L. B. 56 Cap. tala um vatnsfaull og þeirra veitíngar bœa í mille, álítz ad vera meint um þad vautn, sem af nátturinne eru rennande frá fialle til láglendis, enn ecke um stauduvautn, sem í eins lande kunna ad vera: þarfyrer hlíder ecke sá capitule eigenlega uppá þessa sauk, sem nú er fyrer lögþíngis rettinum í millum bændanna Thorkells Sigurds sonar ad Haumrum á þá einu sídu, Skídshollts ábúenda Sigurdar Einars sonar og Olafs Jóns sonar á hina adra. Þad so kallada Hreidursvatn liggiande í Hamra landeign er eitt stauduvatn, úr hvoriu ábúendur á Haumrum hafa giort einn skurd edur farveg siálfum ser til þarfa, hvadan vatnid hefur og kunnad renna audrum fleirum jaurdum til þenustu; enn ábúendur jardarinnar Hamra hafa mátt avka og minka þad vatnsrennsle, epter sem þeim siálfum hagade, og voru ecke skylduger, til ad uppehalda þeim vatns skurde audrum til þenustu enn sinne eigen jaurdu: hvarfyrer þó nú verande ábúande Þorkell Sigurds son hafe hladed stíflur fyrer stockinn edur skurdinn úr vatninu, var í hanns siálfræde, sem adrer menn haufdu ecke uppá ad tala, enn miklu sídur ad brióta þær stíflur, sem hann í sínu eigen leigulande og vatne giort hafde: og þessvegna hefur hann rettelega tiltalad bændunum á Skídshollte, sem hanns stíflur afbroted hafa, hvort ad var eitt óloglegt verk; og þó þeir hafe vænz þar til síns húsbónda befalíngar, álítz þad sem einn ógrundadur fyrerburdur, sem ecke kann fyrer rette og dóme ad antakaz; heldur byriar þeim siálfum Skídshollts ábúendum fyrer þetta sitt verk ansvarlegum ad vera. Sú aunnur þeirra ástæda, ad sýsslumadurinn hafe ecke epter fimtar stefnu og ecke á siálfu á-stædis platsinu dæmt í saukinne, er líka so áliten af eingu verde, þar þeim var eins gott ad lída dóm epter almennelegre stefnu

 og

og á þeirra rettu varnarþinge. Því dæmiz her með, ad Herads dómur sýsslumannsins **Halldors Þorgríms sonar** gengenn ad Lækiarbug þann 17da Aprilis 1773, hvar inne þeir bændur ad Skídshollte, Sigurdur Einars son og Olafur Jóns son, fyrer stíflu=brot í Hamra lande eru dæmder, til ad betala þeirra contra parte Þorkele Sigurds syne, sá eine 60 ál. á landsvísu og sá annar nefnelega Olafur Jóns son 40 al. þar ad auk hvor þeirra fyrer sig ½ mork til kóngs, er her med aldeilis stadfestur, og stande vid sína fulla magt; enn citanterne fyrer ógrundad appell og ranga máls sókn til logþíngis rettarinns skulu betala til sýsslumannsinns **Halldors Þorgríms sonar** 30 al. á landsvísu hvor fyrer sig, og líka so til Þorkells Sigurdssonar hvor fyrer sig 30 al. allt þetta under adfaur og execution ad logum.

## Num. XII.

Þann 14da Júlii affagde Hr. logmadur B. Marcús son eptersylgiande dómsluútníng í vitna málinu frá Reykiavík:

Þad er avdsiáanlegt af þeirre eidfestudu so kaulludu underretning sub lit. D, sem þav híngad stefndu vitne frá Reykiavík gefed hafa þann 6. Martii 1773. um burtvísun fólksins úr innretnínganna þenustu þann 25 Júlii 1767, nær hún er samanboren vid Krigsraad Arve Gudmandsens þá haldna dag bók og protocol, ad saumu vitne hafa miaug gálavslega frambored þad þeim byriade um ad vitna, serdeiles þad, ad eingenn af því þann 25ta Júlii burtvísada fólke hafe nockur lavn, kost edur underholdning fenged af innretníngunum frá sama dato og sídan; þar þó af sama protocol bevísaz, ad ellefu af þeim þann 25. Júlii burtvísudu voru í þenustuna aptur antekner þann 18. Augusti sama ár, sem skyldu epter Krigs=raadens giordu anstalter

nióta

nióta þar launa og nuderholdníngar eins og hiner, sem ádur vid bliou vid þessar níu innrettníngar med vídara; til med hefur Mr. Þorkell Þórdarson qvitterad fyrer og láted ser nægia med 60 Rdr, sem hann fyrer sama ár medteked hafde. Ad hvoriu aullu vel athugudu, er af þessum løgþíngis rette soleidis álíktad og anséd, ad soddan þíngvitne, sem fenged hefur so stórar indskrænkelser, kann ecke fyrer so epterrettanlegt antakaz, ad nockur endelegur dómur kunne þar á grundaz í tillite til folksins burtvísunar frá Reykiavík þann 25. Júlii 1767 og sídan; enn þar sem líklegast skuiz, ad þær feiler, sem vitnin í þeirre underretníngu begenged hafa, seu sken af óadgætne og minnisleyse um þessarar sakar samanhæng epter so maurg ár, og líka af því, ad þeirra minne med naudsynlegum upplýsande spursmálum hefur ei af hlutadeigendum upporfad vered, enn ecke af nockre partisku edur ásetnínge til ad vitna nockud ranglega audrum til skada; so befríaz þau her med fyrer vídara tiltale og fe-bótum í þessu måle.

Procurator Lindberg begeerer ad fá útskrifad þad, sem í þessare sauk er passeret, og vill hafa sier sinn rett reserveret, í fald saukin verde vídara uppátaulud.

## Num. XIII.

Sama s. m. framlagde Mr. Jón Þorgeirs son skriflegt appell prófastsinns Síra Wigfúsar Jóns sonar af dags dato frá Hr. løgmannsinns S. Sølvasonar affagda dóme þann 13. hujus, og begeerer processen í því so kallada brúar-måle beskrifadann innan laga termins.

## Num. XIV.

Sama s. m. mætte í løgþíngis rettinum adjungeret sýsslumann í Múla sýsslu Jón Arnórson, og framlagde Hr. amtmanns O. Stephans sonar ordre, sem astdr ad útfæra Jóns Jóns-sonar mords sauk, dat. 12 Júlii 1774.

 og

og upplesnar not. lit. A. Sÿsslumadur Sigurdur Sigurdsson framlagde Hr. stiftamtmannsinns ordre af 12ta hujus til sin sem defensor ad útfæra nefnds delinqvents forsvar, upplesnar not. lit. B. Þvínærst framlagde sÿsslumadur Arnórsson eina løgþíngis rettar stefnu af 13da hujus: hvarmed delinqventen Jón Jónsson frá Bardastrandar sÿsslu samt adrer vidkomendur sakarinnar stefnaz ad mæta her í dag, og til sakarinnar ad svara, og Jón Jónsson fersklage dóm ad lída med vídara, sem hún medfærer upplesen not. lit. C. Stefnan er vidkomendum auglÿst, sem hennar uppáskrift sÿner. Actor framlagde proces og dóm í þessare sauk, gengenn ad Berufyrde þann 20 Septembr. 1773 af sÿsslumanninum David Schewing, í hvørs slutningu delinqventen Jón Jónsson fyrer begenged mord á úngmenninu Sigurde Sigurdsson syne er dæmdur ad missa lífed, og med auxe hálshøggvaz, sem nefndur proces og dómur vídar útvísar, upplesenn not. lit. D. Delinqventen játar þad allt satt ad vera, sem um hann er í herads processen innfært. Actor uppástendur, ad delinqventen verde ansedur epter N. L. 6. B. 6. Cap. 1. Art. Defensor vonar, ad þad verde álited so sem voda-verk, og kunne ad heimfæraz til N. L. 6. B. 12. Cap 3. Art. Vídara saugduz partarner ei hafa ad framfæra under endelegann løgþíngis dóm.

## Num. XV.

Þann 15da Júlii settiz Hr. løgmadurinn Biørn Marcússon í løgrettu; mætte so fyrer rettinum Mr. Jón Brinjólfsson Thorlacius, og framlagde fullmagt af dato 6 Júnii nærstl. ad ganga í rett sem actor mót Sigríde Gísla dóttur, og hana under endelegann løgþíngis dóm ad færa, upplesen not. lit. A. Því nærst framlagde hann eina løgþíngis rettar stefnu af 12 hujus: hvarmed stefniz Sigrídur Gísla dótter, til ad framfæra sitt forsvar vidvíkiande hennar lausgængeries sauk, samt ad lída endelegann confirmations dóm, upplesen not. lit. B. Sÿsslumadurinn Jón Jónsson framlagde Hr. stiftamtmanns Thodals ordre af dato 13. hujus til sín, ad ganga í rett sem defensor uppá nefndrar Sigrídar vegna, þær upplesnar not. lit. C. Þvínærst framlagde

acto

actor Eystra-hrepps hreppstióra memorial af 4. Maii næstl. til Hans Hávelbaarenheita Hr. Stiftamtmannsinns; hvar inne þeir begera hauns resolution: 1.) hvørt Sigrídur Gísla dótter dæmdur tugthúss fange rádstafaz eige í tugthúsid edur til Mr. Einars Brinjólfs sonar, sem sorge fyrer ad herads dómur yfer henne gengeun af sýsslumanne sál. Þorláke Gudmunds syne af 23. Maii 1772. confirmeriz, edur hvørt sýsslumadur Steindor se skyldugur hana ad taka í arrest uppá rettariuns vegna mót billegum betalíng; 2.) ad hvørium sveitin eige sinn adgang fyrer orsakad ómak og vandræde af Sigríde so langa tíd. Hvar uppá Hr. stiftamtmadurinn resolverad hefur, ad sýsslumannsinns Brinjólfs Sigurds sonar erfíngium tilkome ad besorga, ad saukinne se á ný iunstefnt fyrer løgþíngis rettinn, og Sigrídur þangad forsvaraulega transporterud, med vídara sem Hr. stiftamtmannsins resolution af dato 11ta Maii 1774. medsærer. Mr. Einar Briujólfs son med sinne uppáskrift á nefndann memorial hefur lofad, ad hann vilie betala Sigrídar hald billega frá 27da Maii, þá uppáskriftin er dateret, og til þessa løgþíngis, epter sem sama uppáskrift vídar medfærer, upplesen not. lit. D. Sýsslumadur Jón framlagde innlegg af dags dato: hvar inne hann uppástendur, ad sá instefnde dómur yfer Sigríde Gísla dóttur verde sem óepterrettanlegur dæmdur og áliteun, þar haunum se nú fyrst innstefnt epter lidenn 2ia. ára tíma, í følge forordn. af 17da Maji 1690. med vídara, sem þad medfærer uppleseд not. lit. E. Mr. Jón Thorlacius uppástendur, ad saukin verde her nú fyrerteken, og refererar sig nú til Hr. stiftamtmannsinns resolution. Sýsslumadurinn Jón begeerer rettarinns afsigt uppá framlagt paastand, ádur enn processen se upplesenn, sem fiell soleidis:

Þesse sauk kann nú ecke epter meir enn 2ia ára tíma frá herads dómsins dato, her under dóm ad takaz í mót defensoris proteste, fyrre enn einn nýr fornyelses dómur er í henne í herade afsagdur, og sá same í tíma fyrer løgþíngis rettinn innstefndur.

Num. XVI.

Þann sama e. m. affagde Hr. løgmadurinn S. Sølvason epterfylgiande dómslutning í mords málinu úr Bardastrandar sýslu:

Herads dómur sýsslumannsins **David Schewings** og hanns meddómsmanna, gengenn ad Berufirde þann 20 September 1773. yfer delinqventen Jóne Jóns syne fyrer mord, sem hann unned hefur á 9. ára gaumlum dreng Sigurde Sigurds syne, hvad delinqventen hefur bæde fyrer vottum sídan fyrer herads rette og nú sídast fyrer nærverande logþíngis rette óneyddur og óþvíngadur medkenndt, skal ecke einasta standa vid magt í því, ad delinqventen Jón Jóns son skule missa lífed og med auxe hálshoggvaz, helldur og ad nefndur delinqvent epter kóngs **Fridr.** 5ta forordning af 7da Febr. 1749. skal fyrst med glóande taungum klípaz, og hanns hægre haund lifande afhoggvaz med vídara, sem dómsins exsecutori tilkemur ad láta í ágt taka; þó þesse sauk, ádur enn nockur exsecution skedur, anndadhvort innstefniz fyrer landsins yferrett, edur allra underdánugast innstilliz under Hans Kóngl. Majsts allranáduguslu resolution.

## Num. XVII.

Þann 16. Júlii settiz Hr. løgmadurinn B. Marcús son í løgrettu: mætte só sýsslumadurinn Páll Axels son, og framlagde Hr. stiftamtmannsins ordre af 14de hujus til sín, ad agere Gudrúnar Páls dóttur duls-máls sauk, samt Hr. amtmanns Stephans sonar ordre til sýslumanns Sr. Wigfúsar Jóns sonar, ad defendera saumu sauk, sem þær vídar útvísa upplesnar not. litr. A. Actor framlagde eina lø:þingis rettar stefnu af 15. hujus: hvarmed sýsslumadurinn Sigurdur Sigurds son og hanns 8 meddómsmenn stefnaz, til ad forsvára sinn yfer delinqventinden Gudrúnu Páls dóttur þann 17da Junii næstl. affagda dauda-dóm; delinqventinden Gudrún stefniz og, til ad framfæra sitt løglegt forsvar í sinne duls-máls sauk, og lída endelegann løgþíngis dóm

dóm, uppleſen not. lit.' B. Þarnæſt var framlagdur vitnaleidſlu act tekenn af ſýsſlumanninum Sigurde Sigurds ſyne af dato 20. og 22. Octobr. 1770. vidvíkiande duls máls ſauk Gudrúnar Páls dóttur, uppleſenn not. lit. C. Enn nú framlagde actor proces og dóm, gengen ad Hvítingum á Weſtmanneyum þann 17da Júnii næſtl. af ſýsſlumanne Sigurde Sigurds ſyne og meddómsmaunnum: hvar inne Gudrún Páls dótter er dæmd frá líſinu, kliſaz þriſvar med glóande tavng ádur, og hennar hoſud á ſtavng uppfeſtaz; ſem ſame dómur vídar útvíſar uppleſenn not. lit. D. Var ſo framlaugd løgþingis dómſlutníng affaugd af Hr. løgmanne B. Marcús ſyne þann 18. Júlii 1770. yfer Gudrúnu Páls dóttur, hvarinne hún er dæmd fyrer begenged duls mál, til ad miſſa ſitt hoſud med auxe, ſem ſame løgþíngis dómur vídar útvíſar, uppleſenn not. lit. E. Gudrún Páls dótter fyrer rettinum nálæg lavs og lidug medkenner, ad þav 2 fyrſtu baurn nefnel. þav, ſem hún fædde 1769 og 1770. hafe hún í duls mále fædt, og í ſió kaſtad; epter ſem þeir þar um gengnu proceſſer og acter útvíſa. Enn þad þridia, ſem proceſſen af 1774 umgetur, og vitne ſvared hafa, ad ſunded hafe lifande í hennar líſe, ſegiz hún alldrei fædt hafa, þar um hefur og eingen upplíſing feugiz. Actor og dómare uppáſtanda, ad herads dómur í þeſſare ſauk verde confirmeradur; enn defenſor, ad dómurinn modereriz í tillite til þeſſ, ad delinqventinden hafe neitad, ad þad ſídaſta fóſtur fædt hafe, og henne ſe þad ei heldur yferbevíſad. Saugduz ſo partarner ei hafa vídara ad framfæra under endelegann løgþíngis dóm.

## Num. XVIII.

Sama f. m. ſettiz Hr. løgmadurinn Sølvaſon í løgrettu; mætte ſo ſýsſlumadur Páll Axels ſon, og framlagde løgþíngis rettar ſtefnu under hende og ſignete Hr. løgmaunſins S. Sølvaſonar af dato 7. Maii innewerande árs: hvarmed ſtefniz ſýsſlúmadurinn David Schewing, til ad forſvara ſitt herads dóm, gengenn ad Beruſirde þann 11ta og 12 Aprilis ſídſtl. vidvíkiande jarda kavpgiørnínge mille Hr. vice-løgmannſins Jóns Olafs ſonar

og Steinunar Benedicts dóttur, sem og so stefnaz ad forsvara sinn kaupgiörníng á jaurdiñe Galtartúngu med litla Galltadal; sem sama lögþíngis rettar stefna, vídar útvísar, uppleſen not. lit. A. Uppástendur so sýsslumadurinn Páll, epterþví ad málspartarner ecke mæta, og eru ecke fyrer þennann rett í ár væntanleger, þá meige þeim fyrerleggiaz ad mæta til næstkomande árs lögþíngs; hvørt foreleggelse uppá original-stefnuna er skrifad, og hún solvidis actori aptur leverud.

## Num. XIX.

Sama f. m. var epterspurt, hvørt nockrer fleire málspartar væru til stadar, sem saker hefdu ad framfæra fyrer lögþíngis rettinn úr nordan og vestan lögdæminu? og innfann sig eingenn: hvar fyrer frá rettinum var genged.

## Num. XX.

Sama e. m. afsagde Hr. lögmadur B. Marcús son epterfylgiande dómslútning í dulsmáls sauk Gudrúnar Páls dóttur:

Delinqventinden Gudrún Páls dótter hefur áred 1770 af lögþíngis rettinum fyrer ádur begeugna dulsmáls sauk til dauda dæmd vered; sama ár í Septembri hefur hún aptur á ný epter hennar egen medkenníngu barn í dulsmále fædt, og því sama í sió kastad; enn nú í þridia sinn hafa vitne svared, ad hún áred 1771. hafe med barns þúnga vered, hvørt fóstur delinqventinden neitad hefur, ad hún nockurn tíma fædt hafe, hvad ecke hefur heldur med nockrum raunkum uppgötvaz kunnad: allt epter þeim herads acter og processer, sem á Westmanneyum 1770 í Octobri og í næstl. Júnii mánude þar um genged hafa. Ad þessum grófu medkenndu og bevísndu dulsmáls saukum soleidis vel athugudum, dæmiz og álíktaz: delinqventinden Gudrún Páls dótter skal epter herads dómsins iñehalde fyrer soddan tvøfalldt medkennt og bevísad hrædelegt mord og dulsmál tvisvar klípaz

med

med glóande tavngum, sídan hennar hægre hond og hofud afhoggvaz med auxe og uppfestaz á stiaka; enn fyrer þeirre þridiu klípsingu er henne vægt, þar ecke er bevísad edur medkennt, ad hún hafe þad þridia fóstur af sier fædt, edur því fargad. Epter þessum logþíngis dóme má þó eingen execution ske, fyrre enn saukin er uppákeñd af ædre rettum, edur Hanns Kóngl. Majst. allra-underdánugast forestället, allt epter þeirre foranstaltning, sem háyfervauldunum þóknaz þar úti ad giora.

## Num. XXI.

Það 18. Júlii s. m. settiz í Logþíngis rettiñ Hr. logmaduriñ S. Solvason: og mætte fyrer rettinum sýsslumadurinn Lídur Gudmunds son, sem framlagde Hr. amtmannsins ordre af 16 Július, til ad útfæra sem actor duls-máls sauk delinqventinnunnar úr Múla sýsslu Þóru Einars dóttur med uppáskrifadre logþíngis rettar stefnu af sama dato, sem henne hefur logformlega avglýst vered, upplesen not. lit. A. Sýsslumadur Vigfús Jónsson mæter sem defensor vegna delinqventinden, og sýsslumadur Jón Arnórs son er og til stadar sem dómare í herade. Framlagde so actor proces og dóm, gengenn í saumu sauk af 10 Maji 1773, under hauns og med-dómsmanna naufnum og signetum: hvar inne delinqventinden Þóra Einarsdotter fyrer begenged duls mál er dæmd frá lífinu, og til ad straffaz epter N. L. 6. B. 6. Cap. 7. og 8. Art. uppleseñ not. lit. B. Delinqventinden fyrer rettinum examinerud, játar þad allt satt ad vera, sem processen um hana seger; enn neitar ad hún hafe sitt fóstur af lífe teked. Actor uppástendur, ad þeir yfer delinqventinden gengnu dómar verde confirmerader; eñ defensor þar í móte bidur í agt takiz, ad ei se bevísud criteria til þess, ad sú barns samteingíng, sem delinqventinden af sér fædde, hafe vered fullburda; vitnad hafe og vered, ad hún hafe vered bæde úng og fáfród: og vænter þessvegna, ad henne stáiz sú vægd, ad verda ecke frá lífinu dæmd heldur í tugt-húsid. Sýsslumadur Jon Arnórs son uppástendur, ad siñ herads dómur verde confirmerad.

nr. Innstilla so partarner saukina til endelegs dóms, og segiaz ei vídara hafa ad framfæra.

## Num. XXII.

Sama s. m. mætte fyrer rettinum sýsslumadurinn Magnús Ketilsson og framlagde løgþíngis rettar stefnu under hende og signete Hr. vice-løgmannsins Jóns Olafssonar af dato 17 Maji inneverande árs: hvar inne stefndur er sýsslumadurinn í Stranda sýsslu Halldor Jacobson epter begering sýsslumannsins í Dala sýsslu Magnúsar Ketilssonar sem constitueradsa talsmanns ecknanna Margretar Pálma dóttur og Sólveigar Biarna dóttur, í einu hvalmále innan Stranda sýsslu; hvar í sýsslumadurinn Halldor Jacobson er beskuldadur fyrer, ad hafa útdreged þann þíngdag í herade, sem af actore var begeerdur og, af haunum siálfum tilsettur nefnel. 2. Augusti næstl. árs, sídan forsómad annann þíngdag nefnel. þann 6ta Septembr. sama ár: hvar vid citanten meinar vera giørd rettar trødkun og spiller í saukinne med vídara, sem stefnan medfærer, uppglesen not. lit. A. Enn medþví sýsslumadur Halldor Jacobsson mæter her ecke, og er ecke væntanlegur til þessa løgþíngis; so uppástendur actor, ad haunum fyrerleggiz ad mæta, og til sakarinnar ad svara, samt endelegann dóm ad lída á næstkomande árs løgþínge, hvørt forelæggelse uppá stefnuna er skrifad, og hún soleidis citanten tilbaka leverud.

## Num. XXIII.

Sama e. m. settiz í rettinn Hr. løgmadur Sølvason: mætte so fyrer rettinum fyrrum løgsagnare í Húnawatns sýsslu Mr. Arngrimur Jóns son, og framlagde eina løgþíngis rettar-stefnu under hende og signete Hr. vice-løgmannsins Jóns Olafssonar af dato 27. Júnii sídstlidna: hvar med sýsslumadurinn Magnús Gíslason stefniz, til ad afhenda citanten Mr. Arngríme gengenn herads process og dóm ad Torfustaudum þann 6ta og 7da Júnii nú í løgþíngis rettinn, samt sama dóm ad forsvara, og dóm ad lída. Vidkomande sakarinnar

innar Einar Jóns son á Reykium stefniz og, ad forsvara sin trássugheit, ad hañ hafe seted á óteke̊e jaurdu; og þar uppá dóm ad Hola, med vidara, sem stefnán med ser ber, uppleſen not. lit. A. Stefnan er vidkomendum avglýst, sem uppáskrifternar sýna. Sýsslumadur Magnús Gíslason meter, og framleggur innlegg af dags dato: hvar inne hann áskiar citantens sakargiftum processens extradition, óskande, hún frádæmiz, og hann ansiáiz fyrer ógrundada sakarinnar ífíng, uppleſed not. lit. B. Aptur framlagde Mr. Arngrímur innlegg af 17 hujus þessare sauk vidkomande; hvar inne hann ítrekar sínar sakſókner í móte sýsslumanninum, begeerer dóm og satisfaction, uppleſed not. lit. C. Partarner óska her uppá interlocutorii dóms, sem losaz á nærstkomande dege.

## Num. XXIV.

Þañ 19 Júlii afſagde Hr. lögmadur S. Sölvason epterfylgiande dómsluthíng í dulsmáls saukinne úr Múla sýsslu:

Herads dómur þess adjungerada sýsslumanns í Múla sýsslu Sr. Joons Arnors sonar og hanns meddómsmanna, gengenn ad Bessastaudum þann 10da Maji 1773 yfer duls-máls sauk delinqventinnunnar Þóru Einars dóttur, hvoria hún hefur so vidt medkenndt, ad hafa fædt sitt fóstur í lavnúng og án þess, ad leita ser edur fóstrinu sidvanalegra hiálpar-medala í slíkum kríngumstædum, sem þó epter lögum navdsýnlega utheimtaz, hvar fyrer hún í herade epter N. L. 6 B. 6. Cap. 8 Art. er dæmd til ad missa sinn háls, og hennar höfud á stiaka uppsetiaz, er her med stadfestur, og skal standa vid fullkomna magt; þó ad eingen exsecution skedur epter þessum dómum fyrr enn epter Hanns Kongl. Majsts allra hæstu resolution.

## Num. XXV.

Sama f. m. afſagde Hr. lögmadurin Sölvason epterfylgiande dómsluthíng í proces málinu úr Húnavatns sýsslu:



Hvad

Hvad sýsslumadurinn í Húnavatns sýsslu Sr. Magnus Gíslason hefur her í logþíngis rettinum framfært, og uppástaded í móte stefnu logsagnarans Arngríms Jóns sonar nefnel. 1) ad hann hafe of-navmann stefnu-frest frá þeim 28 Júnii til hinns 3 Julii inneverande; 2.) ad hann hafe ei vered skyldugur til, og ecke kunnad útheimtaz, ad gefa doominn beskrifadann frá þeim 7da Junii til hinns 27da; þar avdvitad er, ad hann hefur vered og mátt vera í sínum sýsslu erendum, og hafde þaradavk ad underbúa sig til sinnar reisu og rettarinns erenda her á logþínge. Þetta hvort tveggia er fyrer gyldugt og logmætt anteked: og þessvegna sýsslumadurinn Magnus Gíslason fyrer þessu logsagnarans Arngríms tiltale frýkenndur; enn hvad siálfa hofud-saukina og í henne gengenn dóm áhrærer, bídur, til þess audru sinne loglega innstefnd verdur.

## Num. XXVI.

Þann 20 Júlii var allra underdánigast uppleſed beſtallings bref Sr. Jóns Arnórs sonar, til ad vera sýsslumann í Isafiardar sýsslu, dat. Christiansborg þann 21 Febr. 1774.

## Num. XXVII.

Þann 23 Júlii voru til stadar í logþíngis rettinum Hrr. Hrr. stiftamtmadur Thodal, amtmadur Stephansson, landfogetinn og þeir kongl. betientere her í lande, sem í ár komner eru til logþíngesins. Voru so ad forlage Hr. stiftamtmannsins eptersylgiande bref uppleſen:

I.

Under 7de Martii sidst leden har det behaget Hans Kongel. Majst. angaaende de i Aaret 1767 af Rente-Cammeret paabudne Skatters Eftergivelse, allernaadigst at resolvere:

1. At

